UM

# FJÁRHAGSMÁLIÐ

OG

MEÐFERÐ ÞESS Á ALÞÍNGI

1865.

EPTIR

JON SIGURÐSSON,

ALÞÍNGISMANN ÍSFIRÐÍNGA.

REYKJAVÍK 1867.

PRENTAÐ Í PRENTSMIÐJU ÍSLANDS.

EINAR ÞÓRÐARSON.

UM

# FJÁRHAGSMÁLIÐ

OG

## MEÐFERÐ ÞESS Á ALÞÍNGI

1865.

---

EPTIR

JÓN SIGURÐSSON,

ALÞÍNGISMANN ÍSFIRÐÍNGA.

---

REYKJAVÍK.

PRENTAÐ Í PRENTSMIÐJU ÍSLANDS. EINAR ÞÓRÐARSON.

1867.

# FYRIRMÁLI.

*Svo að þeir, sem fá blöð þessi í hendur, viti hvernig á þeim standi, skal eg leyfa mèr með fám orðum að skýra frá því.*

*Það er kunnugt, að frá stjórnarinnar hendi kom fram á alþíngi 1865 frumvarp til «Laga um nýtt fyrirkomulag á fjárhagssambandinu milli Íslands og Danmerkur». Eg held óhætt sè að fullyrða, að frumvarp þetta hafi ekki áunnið sèr mikinn orðstír, og sízt meðal Íslendínga; flestir af þeim, sem þekktu það, þótti það óaðgengilegt, og eitt af hinum heldri þjóðernisblöðum Dana* («Fædrelandet») *sagði, að stjórnin hefði valið lakari uppástúngu en allar þær, sem upp hefði verið bornar í þessu máli. Eigi að síður bar þó fljótt á, að sumir meðal Íslendínga vildu hænast að frumvarpi þessu, og gjöra sèr gott af því, og þessir tóku sig svo geyst, að þeir ætluðu að byrja á því að slá þá úr leik, sem þeir höfðu ímyndan um að mundu ekki víla fyrir sèr að tala hreint og beint um frumvarpið, eins og þeim sýndist það vera sig til. Meðal þessara datt þeim í hug að veitast sèrílagi að mèr, og það var almennt sagt, sem eg ætla satt vera, að einn af löndum mínum og bræðrum í Kaupmannahöfn hafi verið meðverkandi einhverjum dönskum «bróður» í því, að fá samda og prentaða í dönsku dagblaði, sem kallar sig þjóðblað («Folkets Avis»), grein*

*nokkra, sem einkum beindist að mèr, svo sem eg væri mótstöðumaður alls samkomulags meðal stjórnarinnar og Íslendínga í landstjórnarmálinu, og varaði alþíngismenn við að láta lokka sig af mínum ráðum. Greinin var send híngað öðrum «bræðrum» til útbýtíngar, og kom híngað sèrlega heppilega, um sjálfan alþíngistímann, meðan stjórnarfrumvarpið var hjá nefndinni og áður en það kom til umræðu. Greinin sjálf var svo haturslega samin, að mèr gat engin ástæða fundizt til að svara henni, en eg hefi síðar fengið að vita, að tveir af vinum mínum höfðu ritað til blaðsins hvor sína grein mèr í vil, og vildi það þó hvoruga taka; skal eg þó geta þess, að blað þetta kallar sig frjálslynt blað, og þykist bera nafn með rentu. Eg er viss um, að málið sjálft muni hafa fengið alveg sömu afdrif eptir þessa grein, eins og það hefði annars fengið, og hèr á landi, þar sem menn þekktu mig til fulls, gat hún ekki verið mèr til neins skaða, heldur miklu framar til gagns; en þessu er öðruvísi varið í Danmörku, þar sem flestir eru samdóma um, að þeir hvorki þekki nè vilji þekkja íslenzk mál, sízt til neinnar hlítar. Þar geta þesskonar dagblaðsgreinir ráðið miklu um dóma manna, að minnsta kosti um nokkurn tíma. Þessu vildu menn líka auðsýnilega reyna til að byggja á, og það því heldur, sem málið olli á alþíngi töluverðum ágreiníngi. Í sama blaðinu og áður var nefnt var sagt frá þeirri fregn, að alþíng hefði ekki viljað ræða konúngsfrumvarpið og kastað því ósèðu. Þessu trúðu menn, því þó blaðið fengi síðan annað sannara að vita, þá sagði það ekki frá því. Skömmu eptir að eg kom til Kaupmannahafnar,*

*og rètt áður en gufuskipið fór þaðan til Íslands í seinasta sinni, hafði blaðið «Fædrelandet» grein að færa, sem tók undir í sama hljóði og fyr, játaði reyndar, að frumvarpinu hefði verið ábótavant, en þótti því hafa verið vísað frá þínginu, og það án ástæðu. Fyrir þessi málalok beindi það einkum sök að mèr, og að nokkrum öðrum þíngmönnum nafngreindum, sem voru í hinum svonefnda meira hluta á alþíngi, en gaf aptur góðan orðstír hinum, sem í minna hluta þíngmanna voru. Höfundurinn dagsetti brèf sitt í Reykjavík, og þóttist vera þar, en það var hèrumbil alkunnugt, að höfundurinn eða höfundarnir voru í Kaupmannahöfn. Þareð eg var nú einn þíngmanna í Kaupmannahöfn, og átti þar skilið mál, þótti mèr sjálfsögð skylda mín, að skýra rètt og satt frá, eins og var. En hèr fór eins og fyr, að ritstjóri blaðsins vildi ekki taka grein af mèr með nafni, og með sönnum sögum, þó hann tæki grein nafnlausa móti mèr með ósönnum, og þykist þó þessi sami ritstjóri einnig telja blað sitt meðal hinna frjálslyndu. Hèr á landi hefir grein þessi heldur ekki haft blaðalán, því þó «Norðanfari» væri sèr í útvegum um þjónustusaman anda til þess að íslenzka fyrir sig þá greinina, sem bæði var mótsnúin málstað lands vors, og þar að auki mjög meinguð ósannindum og raungum ásökunum, þá sýnist sem honum hafi ekki komið til hugar að reyna að færa lesendum sínum svarið. Ritstjóri Þjóðólfs var, eins og kunnugt er, einna fremstur í flokki meðal þeirra manna, sem vildu aðhyllast stjórnarfrumvarpið, og hefir síðan, að því sem ráða er, fjarlægzt meir og meir þeim skoðunum, sem hann hefir áður framfylgt og marg-*

*sinnis barizt fyrir í blöðum og á þíngum, en svarizt undir hin merkin, sem vilja fella hinn þjóðlega málstað vorn og selja stjórninni sjálfdæmi í þessu máli. Það sem meiri hlutinn fór fram á 1865 hefir hann skýlaust kallað að væri «skömm og skaði fyrir landið»; þess vegna var ekki heldur að hugsa til, að Þjóðólfur mundi gefa rúm svari þessu, þó honum stæði það til boða.*

*Af því nú að nokkrum alþíngismönnum þótti þess vert, að svar þetta væri prentað, höfum við hjálpazt að til að koma því á íslenzku og láta prenta það. Að það kemur nokkuð seint, og í rauninni of seint, er kríngumstæðum að kenna, enda er það ekki ætlað til að hafa mikið um sig, heldur einúngis til að fylla skarð í það, sem ritað hefir verið um málið. Við höfum hvorki snúið nè látið prenta grein þá, sem þessi er svar uppá, því hver sem hefir til þess girnd eða þörf, að lesa hana, hann getur fundið hana í Norðanfara 23. Juli 1866, fimta ár nr. 14—15, bls. 27—28.*

Reykjavík, 6. Angust 1867.

*Jón Sigurðsson.*

Kaupmannahöfn, 17. d. októberm. 1865.

Herra ritstjóri! Í «Fædrelandet» 12. þ. m. er «brèf» nokkurt, sem á að vera skrifað í Reykjavík. Eg finn mèr skylt að fara um það nokkrum orðum, og vil því biðja yður að ljá athugasemdum þessum rúm í hinu heiðraða blaði yðar.

Það liggur í augum uppi, að til þess að koma sannindablæ á sögu sína hefir höfundur brèfsins gjört sèr allt far um að sýnast vera nákunnugur högum Íslands og mönnum þar, einkum á alþíngi. En gæti menn að, hvernig þar hagaði þá til í raun og veru, og beri sögusögn hans saman við það, þá hljóta menn að komast að raun um, að skýrsla hans er næsta óáreiðanleg, og það svo rammskökk, að hann hefir alls eigi getað verið í Reykjavík á þeim tíma, sem brèfið er dagsett. Það er næsta ótrúlegt, að höfundurinn hafi haft svo ákafan áhuga á málinu, að hann hafi sjálfur spunnið upp slíkar sögur, sem hann hefði sjálfur mátt vita að voru helber ósannindi. Fremur verða menn að ímynda sèr, að hann hafi haft fyrir sèr einhver fjarskalega afbökuð skilríki og hlaupið eptir þeim. Eg vil því leyfa mèr að gefa yður *áreiðanlega* skýrslu með sem fæstum orðum um það, sem hann hefir ætlað að fræða á.

Höfundurinn læzt vera nokkurnveginn ánægður með úrslit allflestra mála á síðasta alþíngi, en þykist vera mjög óánægður með meðferð þíngsins á

frumvarpi stjórnarinnar um fyrirkomulagið á fjárhagssambandi Íslands og Danmerkur. Honum skilst svo, sem þíngið hafi gjörsamlega hafnað frumvarpi stjórnarinnar. Því til sönnunar færir hann til eitt atriði úr álitsskjali þíngsins til konúngs. Því atriði er reyndar svo varið, að það getur í fljótu bragði virzt að styðja mál hans, þegar það er slitið út úr sambandinu. Yfir hinum atriðunum þegir hann, og eins yfir því, bæði hvernig á frumvarpinu stóð og hvílíkar undirtektir það fèkk í heild sinni á þínginu. Sè það allt skoðað í sameiníngu, fær málið allt annan blæ en hann vill láta sýnast. Það er einkum tvennt, sem eg ætla nú að leiða rök til og vonast til að geta, nefnil. að frumvarp stjórnarinnar hafi í raun og veru að efninu til fengið svo góðar undirtektir, sem því gátu borið, með því að þíngið kannaðist við, að með því væri málinu þokað nokkuð áleiðis og nær samkomulagi, og að uppástúnga þíngsins alls eigi þurfi að verða málinu til neinnar fyrirstöðu eða minnstu tafar, ef stjórninni væri það full alvara að hraða úrslitum þess.

Eg skal þá fyrst skýra frá, hvernig á málinu stóð, og meðferð þess á alþíngi. Konúngsfulltrúi lagði fram fyrir þíngið «frumvarp til laga um nýtt fyrirkomulag á fjárhagssambandinu milli Íslands og Danmerkur». Hvað frumvarp þetta snertir og ástæðurnar fyrir því, get eg vísað til departements-tíðindanna 22. Juli þ. á., nr. 38. Í 1.—4. gr. frumvarpsins er ráð fyrir gjört, að ríkisþíngið skuli (um 12 ár) afsala sèr öllum fjármálaráðum Íslands, og að alþíng skuli (um 12 ár) takast þau á hendur. Þar er og til tekið, hvað teljast skuli með tekjum og útgjöldum Íslands eingaungu, og sem alþíng skuli

fá ráð yfir. Í 5. gr. er stúngið upp á því, að greiða skuli öll eptirlaun, sem Íslandi við koma, úr ríkissjóði, en þau gjöld eiga aptur að dragast frá því 42,000 ríkisdala tillagi, sem Íslandi er heitið (um 12 ár) í 7. gr. Enn er svo á kveðið í 6. gr., að kostnaðurinn við stjórn Íslands mála í Kaupmannahöfn og við gufuskips-póstferðirnar milli Íslands og Kaupmannahafnar skuli eigi teljast með útgjöldum Íslands. (um 12 ár). Þetta er hèrumbil aðalefnið í frumvarpinu.

Þess ber fyrst að gæta, að frumvarp stjórnarinnar er ekki frumvarp til laga handa Íslandi, heldur til einhverskonar bráðabirgðarlaga, sem síðan eiga að leggjast fyrir ríkisþíngið danska, og vera svo sem til leiðbeiníngar síðar meir, þegar samið yrði eiginlegt lagafrumvarp í þessu máli eða stjórnarskipunarfrumvarp, sem einhverntíma yrði að líkindum lagt fyrir alþíng. Það er og athuganda, að alþíng Íslendínga er að eins ráðgjafarþíng, eins og stèttaþíngin gömlu voru. Með því nú að svo mikill munur er á stöðu og rèttindum alþíngis og ríkisþíngsins, þá getur hver maður skilið, að meðferð málanna hlýtur að vera öll önnur, og þau verða að skoðast frá ólíku sjónarmiði. Þetta atriði hefir mikla þýðíng. Nú er svo að sjá, sem stjórnin helzt vilji skoða alþíng sem nokkurskonar álitanefnd, sem annað veifið lúti undir sig, en hitt veifið undir ríkisþíngið. Alþíngi er því varla láanda, þótt það eptir megni leitist við í sem flestum málum að neyta rèttar síns, eins og það gjörir, og hiki sèr við og enda sè hrætt við að takast í fáng meðferð mála, þegar fyrirfram má gánga að því vísu, að tillögur þess um þau verði lítils eða vettugis metnar. Það er að minnsta

kosti auðsætt, að hver þíngmaður verður að álita það skyldu sína við þjóð og þíng, að heimta hinar fyllztu og ítarlegustu skýrslur um þvílík mál, og allt horf þeirra, áður en þíngið skýrir frá áliti sínu um þau, með því að það er varla efunarmál, að ríkisþíngið muni vilja skera og skapa þau mál eptir sínu höfði, og teyma svo stjórnina á sínu bandi.

Vèr skulum nú íhuga hina innri hlið málsins, eða merginn í frumvarpinu. Eins og áður er á vikið, ákveður frumvarpið ekkert fast fyrirkomulag á stjórnarskipun eða fjárhagsstöðu Íslands, en er að eins bráðabirgðarráðstöfun um 12 ár. Eins og höfundur «brèfsins» kemst að orði, þá er þetta stjórnarfrumvarp frumvarp til úrslita, sem í raun og veru eru engin úrslit. Af ymsum orðum og orðtækjum frumvarpsins má ráða í, hvílíka stöðu vèr Íslendíngar eigum í vændum og hún er eigi tiltakanlega glæsileg, þótt hún í einstökum atriðum sè álitlegri en hún leit út fyrir eptir frumvörpunum 1851 og 1857. Að vísu er gjört ráð fyrir, að alþíng skuli hafa fjárhagsráð í þeim málum, er eingaungu varði Ísland, en jafnframt er svo til ætlazt (sjá 6. gr.), að aðalstjórn landsins skuli vera í Kaupmannahöfn, og kostnaðurinn við hana skuli eigi vera talinn til útgjalda landsins. Þetta er auðsjáanlega svo að skilja, að landið skuli eigi standa í neinu sèrstaklegu sambandi við konúng, skuli eigi hafa atkvæði í þeim almennum málum, er það kann að vilja láta sig skipta, og skuli eigi fá neina aðalstjórn í landinu sjálfu, heldur skuli það vera undir nokkurskonar nýlendustjórn, og það enganveginn frjálslegri nýlendustjórn, eða því skuli annars kostar vera stjórnað uppá gamla móðinn, eða í líkíngu við það sem verið hefir, öldúngis

stefnulaust frá stjórnarlegu sjónarmiði. Menn skyldu ætla, að stjórninni væri næst skapi að halda öllu í gamla horfinu, því að um sama leyti, sem þetta frumvarp hennar var á prjónunum, veitti hún stiptamtmannsembættið, og sýndi sig líklega að veita amtmannsembættið í vestur-umdæminu, með öllum sömu kostum og áður. Málið er því viðsjáverðara, sem það er einúngis bráðabirgðar-fyrirkomulag um 12 ár. Þetta er nú aðalhængurinn við frumvarpið. Ýmislegt fleira var að frumvarpinu, sem jafnmikill háski gat staðið af. Eitt var það, að alþíng fèkk enga vissu fyrir, hvort ríkisþíngið mundi vera fúst eða enda fáanlegt, til að gánga að þeim kostum, er stjórnin bauð í frumvarpinu, hvorki í einu nè öðru. Annað var það, að hvorki konúngsfulltrúi nè sá hinna konúngkjörnu þíngmanna, er virtist handgengnastur stjórninni, gátu gefið neinar skýrslur um málið, ekki heldur sýnt neitt umboð af stjórnarinnar hendi til að semja við þíngið um, með hverjum kostum eða hverri aðferð helzt mætti greiða fyrir meðferð og úrslitum málsins. Þetta hefir jafnan verið til talsverðrar fyrirstöðu við meðferð málanna á alþíngi, en láng-háskalegast hlýtur það að vera, þegar um fyrirkomulag þeirra mála er að ræða, er varða þjóðina eins miklu og hèr átti sèr stað, og slík aðferð af stjórnarinnar hálfu er enda meiðandi fyrir þíngið, því það er rètt eins og stjórnin láti sig engu skipta, hvernig þíngið tekur í málin.

Eitt atriði er það, sem öllum, er hlut eiga að máli, virðist ávallt að hafa komið saman um, og það er, að fjárhagsaðskilnaður Íslands og Danmerkur og stjórnarbót Íslands yrði að haldast í hendur. Alþíng hefir jafnan fylgt þeirri skoðan. Nefndin, er

skipuð var árið 1861 til að ræða um fjárhagsaðskilnaðinn, var í því atriðinu samhuga. Stjórnin virtist vera komin að sömu niðurstöðu (sjá auglýsíngar konúngs til alþíngis, 1. Juni 1861. II, 14 og 8. Juni 1863. II, 9). Nú hafði stjórnin vikið frá þessari grundvallarreglu. Af hverri ástæðu hún hafi gjört það, sèst eigi, enda hefir henni eigi þóknazt að skýra frá því. Fjárhagsnefndin á alþíngi í sumar tók þetta enn fram í einu hljóði, og meiri hluti hennar rèði til, að öllu málinu væri frestað að sinni, en lagt aptur fyrir sèrstakan þjóðfund, sem heitið var í konúngsbrèfi 23. Septbr. 1848, og þessa uppástúngu samþykkti þíngið með miklum atkvæðafjölda. Það er og auðsætt, að eigi er unnt að gjöra neina áreiðanlega fjárhagsáætlun, meðan óvíst er hvernig stjórnarfyrirkomulagið verður. Menn geta ímyndað sèr svo margskonar og misjafnlega kostnaðarsamt stjórnarfyrirkomulag; og eptir því hlýtur fjárhagsáætlunin að lagast. Þessari stefnu hlýtur alþíng ómótmælanlega að halda fast fram, og þess vegna verður eigi við því búizt, að það nokkurn tíma samþykki nokkra ákveðna árgjaldsupphæð í tölum — sem miðuð er við ástand landsins, þegar fjárhags-aðskilnaðurinn verður, en eigi við reikníngskröfur þess —, nema því að eins, að fullkomið frumvarp til laga um stjórnarskipun Íslands sè samfara, svo hægt verði að fá greinilegt yfirlit yfir, hvernig allt stjórnarfyrirkomulag Íslands verði og hversu mikinn kostnað það muni hafa í för með sèr.

Þegar málinu nú er þannig varið, liggur það í augum uppi, að alþíng varð að taka eins í frumvarp þetta, og það gjörði. Samkvæmt þessari stefnu

hlutu hvortveggja aðalatriðin í stjórnarfrumvarpinu, bæði það, að ríkisþíngið lèti af hendi við alþíng öll fjárveizluráð fyrir Íslands hönd, og hitt, um tillagsupphæðina, er fjárhagsaðskilnaður yrði, að fá þau úrslit, sem þau fengu. Fyrra atriðið, að alþíng fengi í hendur fjárveizluráðin, hlaut þíngið í sjálfu sèr að fallast á, og það hefir það gjört, og enda tekið það skýrt og skorinort fram. Þíngið gat reyndar eigi skilið í, að sèrstakt lagaboð þyrfti til að breyta því fyrirkomulagi, sem að vísu á sèr stað, en hvorki hefir lög nè heimild við að styðjast. Með því nú ríkisþíngið hefir haft á hendi fjárveizlu fyrir Íslands hönd án samþykkis alþíngis og einúngis eptir samkomulagi við stjórnina, hlaut það að vera eðlilegast, að stjórnin sjálf kæmi sèr saman við ríkisþíngið um það, að það sleppti aptur þessum ólögbundnu yfirráðum, sem það varla mun vera svo sèrlega fastheldið á. Það liggur nærri að ætla, að stjórnin hafi með frumvarpi þessu ætlað sèr að ná í nokkurskonar kvittun hjá alþíngi fyrir allan þann tíma, sem hún hefir veitt ríkisþínginu fjárhald Íslands, en alþíng gat alls enga ástæðu haft til þess að gefa þesskonar kvittun, og kannast þannig óbeinlínis við, að ríkisþíngið hefði verið lögráðandi fjármála Íslands eða haft lögmætt skattálöguvald, sem hlaut eptir eðli sínu að lúta undir fulltrúa þjóðarinnar. — Um hitt atriðið, eða um ársgjaldsupphæðina úr ríkissjóði Danmerkur, var alþíngi alls eigi unnt að gjöra neina uppástúngu í tölum, eins og á stendur, af þeirri einföldu og auðskildu ástæðu, er áður var getið, að stjórnin hafði eigi gefið þínginu kost á, að geta gjört sèr nokkra hugmynd um, hvað stjórn landsins framvegis mundi kosta, og eigi heldur fengið erinds-

rekum sínum í hendur nægilegar skýrslur um það efni. En til þess að hraða málinu sem mest, gjörði þíngið allt, sem því var auðið að gjöra, og mæltist til, að stjórnarfyrirkomulagið í heild sinni yrði lagt fyrir fund þann, er samkvæmt heitorði konúngs, sem enn er óefnt, hefir fengið það sèrstaklega ætlunarverk, að starfa að máli þessu og leiða það til lykta.

Eg verð að segja höfundi «brèfsins» það, að hann hefir enganveginn farið heiðarlega að ráði sínu í skýrslu sinni um úrslit þessa máls á þíngi, er hann hefir alveg þegjandi gengið framhjá þeim atriðum í álitsskjali alþíngis, er helzt snerta aðalefni málsins. Þíngið hefir eigi einúngis, eins og honum segist, ráðið hans hátign konúnginum frá að gjöra frumvarpið að lögum, þannig á sig komið, sem það var lagt fyrir þíngið. Það gjörði mikið meira. Það samþykkti með 15 atkvæðum gegn 10, að votta konúngi þakkir í álitsskjali sínu fyrir þetta boð um full skattaráð fyrir alþíngi o. s. frv., sem liggur til grundvallar fyrir 1.—4. grein frumvarpsins. Það samþykkti með 16 atkvæðum gegn 7, að skýra skyldi frá hinni ýmislegu tillagsupphæð í tölum, er stúngið hafði verið uppá, og ástæðum fyrir þeim, í álitsskjali sínu, þótt eigi væri gengið sèrstaklega til atkvæða um upphæðina (því þínginu var eigi unnt, að gjöra neina ákveðna uppástúngu um það efni, eins og ástatt var). Enn fremur var það samþykkt á þínginu, með 17 atkvæðum gegn 4, að beiðast þess, að sem allra fyrst yrði kvadt til þjóðfundar, samkvæmt heitorði konúngs í brèfi hans 23. Septbr. 1848 og kosníngarlögunum 28. Septbr. 1849, og að fyrir þann fund yrði lagt frumvarp til fullkominna stjórnarskipunarlaga fyrir Ísland, er byggt væri á sömu

grundvallarreglum, sem 1.—4. grein frumvarps þessa lýsa. Með því nú höfundur brèfsins hefir þekkt eitt af atriðum þessum, hefir hann orðið að þekkja þau öll, sè «brèfið» frá Reykjavík, því 28. August var búið að prenta þau þar öll. Hann hefir því orðið að sneiða hjá þeim með ásettu ráði. Slík aðferð lýsir því ofur vel sjálf, af hverjum rótum hún er runnin, ekki sízt þegar nöpur hrakyrði um einstaka menn blandast saman við. — Hann segir enn fremur, að mönnum hafi mjög brugðið í brún, er þeir sáu, að þetta atriði, sem hann hefir tekið fram, hafi staðið fyrst á atkvæðaskránni og komið fyrst til atkvæða. Þetta er eigi sannara en annað. Við undirbúníngs-umræðuna, sem haldin var á fjórum fundum og stóð í 3 daga, áskildu menn sèr öll þau breytíngaratkvæði, er sett voru á atkvæðaskrána. Síðan höfðu þíngmenn 3 daga til að íhuga málið, milli undirbúníngsumræðunnar, og ályktarumræðunnar, og enn fremur láu prentaðar atkvæðaskrár fyrir mönnum frá því daginn áður en gengið var til atkvæða, og enginn hreyfði heldur neinni mótbáru gegn atkvæðaskránni, enda gat varla verið ástæða til þess, með því að meðferð málsins var í alla staði lögmæt og samkvæm því, sem í öðrum málum er tíðkanlegt.

Eg þykist nú hafa sannað, að frumvarp stjórnarinnar hafi fengið í raun og veru alla tilhlýðilega viðurkenníngu af þínginu, þó að það yrði að ráða stjórninni frá að gjöra það óbreytt að lögum, eins og það lá fyrir, sökum þýðingarmikilla galla, sem stjórnin hefði bæði átt að sjá og getað sèð við í tíma.

Ef menn nú hugleiða uppástúngur alþíngis, þá verður eigi með rökum sagt, að nokkuð í þeim hafi getað valdið drætti á málinu. Stjórnin hefir stöðugt

síðan 1848 haft nýtt fyrirkomulag á stjórnarskipun Íslands á prjónunum. Hún hefir haft hinar mest knýjandi ástæður til að hrinda því í lag, því að alþíng hefir í hvert einasta skipti, síðan 1853, endurnýjað beiðni sína í því efni. Síðan í Julimánuði 1862, eða um rúm þrjú ár, hefir hún haft handa á milli álit fjárhagsnefndarinnar. Eptir þenna lánga og mikla undirbúníng skyldi menn ætla, að eitt missiri mundi hafa verið nægilegt til að semja frumvarp til stjórnarskipunarlaga og fá álit ríkisþíngsins um upphæð árgjaldsins. Svo hefði eigi annað þurft, en að láta einhverja skútu bregða sèr til Reykjavíkur um árslokin, annaðhvort hèðan frá Kaupmannahöfn eða frá Skotlandi með brèf og boð um, að nýjar kosníngar skyldu fram fara. Kosníngarnar mundu og hafa getað orðið nógu snemmbúnar, hefði vel verið að verið, og hefði eigi þurft að verða næsta kostnaðarsamar, svo að fundurinn hefði getað tekið til starfa t. a. m. í miðjum Juli eða fyrst í August, eða enda fyrst í Juli næsta ár. — Þetta væri m ö g u l e g t — það er víst —, en það er lángt frá mèr að segja, að svona muni fara í r e y n d i n n i, því eg geng að því vísu, að sumum muni virðast þessi áætlan hugarburður einn, sem enginn vegur sè til að koma í kríng. Ef nú stjórnin fèllist á að kveðja til þjóðfundar, og leggja fyrir hann frumvarp til stjórnarskipunarlaga, en vildi þó fara í hægðum sínum, eins og vant er, þá gæti þjóðfundurinn að minnsta kosti komið saman í stað alþingis 1. Juli 1867, því að alþíngistilskipuninni væri eigi vandara um en 1851. En þó að nú alþíng hefði hallazt að stjórnarfrumvarpinu óbreyttu, þá var þess engi von, að frumvarp til eiginlegra stjórnarskipunarlaga fyrir Ísland hefði getað orðið

lagt fram fyrr en á alþíngi 1867. Biðin á stjórnarbótinni mundi þá hafa orðið jafnlaung, hvernig sem alþíng hefði farið að, og verður því eigi sagt, að það hafi tafið málið. Í þessu atriði hefir þá höfundur brèfsins einnig rángt fyrir sèr.

Þegar nú höfundur «brèfsins» leggur út allar gjörðir þíngsins í þessu máli á þann veg sem hann gjörir, þá er eigi kyn, þótt hann skeyti skapi sínu á þeim, er hann kennir úrslit málsins, og eg, sem rita þetta, hefi enganveginn farið varhluta af atyrðum hans, því að eg á að hafa með ymsum brögðum afvega leidt hina andlega voluðu meðal þíngmanna. Það er að vísu öldúngis satt, að eg ræddi um mál þetta að efninu til á þínginu, en til þess hafði eg sem forseti fullkomna lagaheimild, þó að eg mjög sjaldan hafi hagnýtt mèr þann rètt. Enn fremur vil eg enganveginn lýsa yfir því vantrausti til sjálfs mín, að athugasemdir mínar hafi engin áhrif haft á úrslit málsins; en hins vegar er eg nokkurnveginn sannfærður um það, að úrslit málsins mundu hafa orðið svipuð, hvort sem var. Eg þykist líka vera búinn að sýna það, að ef menn íhuga alla málavöxtu með stillíngu, þá getur ekkert verulegt þykkjuefni verið á hvoruga hlið. Ef menn kannast við, að frumvarp stjórnarinnar hafi eigi verið aðgengilegt, þá leiðir af sjálfu sèr, að engin ástæða er til að stökkva upp á nef sèr útaf því, þó að það eigi væri samþykkt, eins og það lá fyrir. Annaðhvort varð þá að breyta því eða hafna. Það hlaut að vera varasamt að stínga uppá breytíngum við það, með því engi vissa var fyrir, hverjar afleiðíngar þær kynni að hafa. Menn gátu alls eigi treyst því, að nokkrar breytíngar yrði málinu til fyrirgreiðslu,

og eigi varð heldur búizt við, að uppástúngur þíngsins gæti orðið því til nokkurrar fyrirstöðu, nema menn hefði búizt við nöturlegri smámunasemi hjá stjórninni, en nú sem stendur eru að minnsta kosti eigi nægar ástæður til að gjöra stjórninni slíkar getsakir. Höfundur «brèfsins» hefir notað tækifærið til þess að kasta mèr því í nasir, að eg hafi unnið «oss» (Íslendíngum) mikið mein með því, að koma fram með afar-háar kröfur í nefndinni 1861, sem einúngis sè til að gjöra skuldheimtumennina að athlægi. Eg veit það fullvel, að Danir eiga alls úrkosti við oss, og geta að því leyti hlegið að kröfum vorum, því að vèr getum eigi sókt annað í greipar þeim, en þeir vilja góðfúslega miðla oss. Eg skal eigi láta mèr þykja fyrir, þó að höfundur «brèfsins» hlægi þeim til samlætis, ef hann hefir hvorki hug nè hjarta til að standa andvígur gegn þeim, er traðka rèttindum ættjarðar sinnar, en þykir meiri fremd að skríða í skot og kroppa í bak annara í laumi. Það getur vel verið, að mörgum hafi komið á óvart kröfur mínar, ef svo mætti kalla, af Íslands hálfu, af því að þeir sökum þolinmæði Íslendínga hafi verið vanir að ímynda sèr Ísland líkt og mjólkurkú, sem er nytkuð meðan verður, en leidd út og slegin af eða seld þegar búið er að hafa öll not af henni, svo sem unnt er. En kröfur þessar verða hvorki kallaðar ofháar nè ósanngjarnar, ef menn gæta grannt að öllum málavöxtum. Þær styðjast við hina sömu grundvallarreglu, sem híngað til hefir á hverju ári verið fylgt í fjármálum Íslands, reikníngum og áætlunum. Munurinn er að eins sá, að eptir uppástúngum mínum styðst hið árlega gjald til Íslands við fastan grundvöll, byggðan á rèttum rökum, og Ísland fær á

frjálslegan hátt nokkrar bætur fyrir þann bersýnilega ójöfnuð, sem það hefir orðið að sæta, og fær þar að auki nokkurn fjárstofn í hendur, svo að það getur upp á eigin spýtur farið að byrja á þeim endurbótum, sem því hefir híngaðtil verið synjað um fè til. Sömuleiðis yrði Danmörk þá laus við vaxandi útgjöld, og byggi jafnframt í haginn fyrir sig að geta fengið það aptur, er fram líða stundir, er hún nú lèti úti, því eptir minni uppástúngu einni, en engri annari, er nokkur von og vegur til þess, að Danmörku geti endurgoldizt sá tillagseyrir, er Íslandi verður hlutaður við fjárhagsaðskilnaðinn, og á þann hátt einan kann tillagið að geta skoðast að sumu leyti sem nokkurskonar lánsfè. Þetta gæti því orðið hagnaður á báða bóga. Höfundurinn bregður mèr enn fremur um það, að kærur mínar á hendur Dönum sè töluvert svæsnari í íslenzkum ritum eptir mig en dönskum, t. a. m. í fjárhagsnefndarálitinu, og að eg skirrist við að láta í ljósi skoðanir mínar á öðru máli en íslenzku, o. s. frv. Þessi atriði eru gripin úr lausu lopti. Eg hefi ritað meira um þessi mál á dönsku, en flestir eða allir aðrir; eg hefi, ef til vill, stundum verið skorinorður, en það þori eg þó að fullyrða, að þótt höfundurinn tíndi saman úr íslenzkum ritum allar þær málsgreinir eptir mig, sem honum þóknast að kalla svæsnar, og breiddi þær út meðal almennings í Danmörku, þá mundi enginn geta fundið neitt annað í þeim en það, sem bæði eg og aðrir hafa látið í ljósi á dönsku máli, og engan hefir hneygslað. Mèr getur eigi einusinni dottið í hug að jafna orðum mínum saman við þann óhróður, sem stundum og það eigi allsjaldan er borinn á Íslendínga í dönskum blöðum.

Eg get enda eigi betur munað, en eg hafi aldrei bent mönnum á, hversu fjarskalega óeðlilegt það er, að Danir, sem þegar hafa notið frjálsrar stjórnarskipunar í 17 ár, skuli enn þá halda og vilja halda Íslendíngum undir hinu gamla einveldisoki. — Enn framar er það átyllulaust, er höfundurinn hermir, að eg hafi nokkurn tíma ætlazt til, að Ísland skyldi eingaungu bjargast við leigur frá Danmörku, því að bæði er það deginum ljósara, enda hefi eg þrálega tekið það fram, að þó að Ísland fengi hið hæsta árgjald, sem komið hefir til orða, og þó að það hefði margfaldar árstekjur við það, þá mundu þær eigi gjöra betur en hrökkva, ef eigi ætti að gánga óra lángur tími til þeirra endurbóta, sem telja má, eptir því nú er ástatt, að líf Íslands liggi við, því þess ber að gæta, að híngað til hefir alls ekkert verið hirt um framfarir landsins, að því er lýtur að velmegun þess og atvinnu. — Höfundurinn leitast við að telja mönnum trú um, að enginn hinna greindari manna á Íslandi hafi fellt sig við «kröfur» mínar og ekki einn einasti maður, hvorki á Íslandi nè alþíngi, hafi reynt til að mæla þeim bót. Ef eitthvað væri satt í þessu, væri hætt við, að honum yrði erfitt að gjöra sèr eða öðrum skiljanlegt, hvernig eg gæti haft þau áhrif á þíngið, sem hann eignar mèr, nema því að eins, að eg væri horfinn frá þeirri skoðun sjálfur. Þetta er auðsjáanlega eitthvað öfugt, enda hefir þorri manna á Íslandi í sannleika gjört góðan róm að uppástúngum mínum, og það kann enn glöggvar að koma í ljós síðar.

Þessu til sönnunar eru ymsar umræður manna á hinu síðasta þíngi. Annað mál er það, þótt þíngið kunni að finna einhverjar ástæður til að hallast í bráðina að ástandskröfu-fyrirkomulagi stjórnarinnar,

hversu gjörræðislegt sem það er, til þess að sjá, hverju fram vindur. Eg skyldi heldur alls ekkert hafa á móti því, ef eg sæi, að það gæti orðið nokkurnveginn viðunanlegt fyrir Ísland, því að eg ann Dönum vel þeirrar ánægju, að kalla það gjald náðargjöf, sem Íslendingar hljóta að telja byggt bæði á sanngirniskröfu og rèttarkröfu af sinni hálfu.

Eigi tekst höfundinum öllu betur, er hann fer að herma frá öðrum einstökum mönnum. Hann nafngreinir tvo af sínum uppáhaldsmönnum á þínginu, en segir þó öfugt frá báðum. Annar þeirra er ritstjóri Þjóðólfs, málaflutníngsmaður Jón Guðmundsson. Höfundurinn lætur hann vera iðrandi syndara, og hann á að hafa varið skoðun meira hlutans (!). Hinn er síra Arnljótur Ólafsson, sem á að hafa sýnt sína ættjarðarást í því, að hafa barízt undir merkjum minna hlutans (!), enda gekk nú höfundurinn að því vísu um manninn þann. Lesendurnir eiga nú víst bágt með að botna í þessu í sambandi við hitt, og vil eg þeim til hægðarauka skýra frá, hvernig þessu var í raun rèttri varið. Báðir þessir menn voru á sama máli og minni hluti þíngsins, en í fjárhagsnefndinni á þínginu var það öfugt við það, sem höfundurinn segir, því að síra Arnljótur hallaðist að meira hluta nefndarinnar, en Jón að minna hlutanum.

Síra Eiríkur Kúld, sem er einhver hinn ötulasti og sjálffærasti allra þíngmanna, á að sögn höfundarins að vera «trúr fylgifiskur forseta» (minn), og á að hafa gengið um kríng og smalað atkvæðum. Tíu bændur eiga að hafa látið ginnast, og gjörir höfundurinn sèr þetta skiljanlegt með því, að fimm þeirra voru nýir af nálinni og höfðu eigi fyrr verið á þíngi. Einn hinna

á að hafa verið liðskiptíngur, og verður honum þó vart brugðið um viðvaníngskap, því að hann hefir í 20 ár verið þíngmaður, og átt setu á flestum þíngunum, og hefir allt til þessa verið talinn sómi stéttar sinnar. það er nú reyndar vitaskuld, að þíngmenn ræða þíngmál utanþíngs, þegar þeir hittast, hvort sem þeir eru fleiri eða færri, og þá lætur hver í ljósi skoðun sína á málum og náttúrlega ver hana, eptir því sem hann hefir bezt vit á. Setjum nú svo, að bændurnir væri leiðitamastir allra þíngmanna. þegar þíngið þá skiptist í flokka, væri hvorumtveggja jafnt innanhandar, að handsama sannfæríngu þeirra. En þessu er eigi þannig varið, því að svo er mál með vexti, að bændur hafa, ef satt skal segja, allt eins fastar og óbifanlegar skoðanir og stórmennin á þínginu, sem höfundurinn titlar «úrval þíngsins og óháða menn». Eg þykist engum nærri höggva, þó eg enda kalli bændur hina óleiðitömustu og óháðustu menn á alþíngi. Höfundurinn mun eflaust hafa ætlað sèr með þessu að smeygja sèr inn undir hjá einstökum mönnum í Danmörku, sem daglega eru að klifa á því, að bændur gjörist ginníngarfífl, láti siga sèr, o. s. frv. þesskonar orðatiltæki eru ekki spány, enda sanna þau varla annað en furðanlega einfeldni höfundarins. — þó kastar tólfunum, þegar hann minnist á biskupinn. þessi «öldúngur» á að vera svo genginn í bernsku, að hann láti skrifara sinn Jón Árnason afvegaleiða sig, en Jón á að vera einhver hinn frakkasti fylgismaður minn, og tilefnið til þessarar fylgisemi á að vera það, að fyrir 6 árum síðan á eg að hafa beitt mínu «mikla valdi» í hinu íslenzka bókmentafèlagi í hans þágu eða honum í «hag».

þetta getur maður kallað skáld, þó hann yrki ekki! — Í þessu atriði er nú heimskan reyndar hvað bersýnilegust, en þó skal eg leyfa mèr að skýra í stuttu máli frá málavöxtum. Árið 1859 tókst bóksali nokkur í Leipzig það á hendur, að gefa út á sinn kostnað íslenzkar þjóðsögur og æfintýri, er þeir Jón Árnason og Magnús Grímsson höfðu safnað. Nokkru síðar gjörði bóksali þessi fyrirspurn (eigi hjá safnendunum, heldur) hjá hinu íslenzka bókmentafèlagi, hvort það vildi eigi kaupa nokkurn hluta af upplaginu til útbýtíngar meðal fèlagsmanna. Stjórn deildarinnar hèr var samhuga í því, að þetta mundi allæskilegt, og eg sem forseti þess bar það upp á fundi, og var það samþykkt með miklum atkvæðafjölda (24 atkvæðum gegn 2) og íslenzka deildin galt síðar samþykki sitt til þess. Eg verð að geta þess, að svo eg til viti höfðu safnendurnir eigi hinn allraminnsta hag af þessu, heldur einmitt fèlagsmenn, sem fengu þetta mikla þjóðsagnasafn, er kostaði 13 rd., fyrir alls ekkert. Svona er nú þessi saga! — Ágizkanir höfundarins um biskupsskrifarann og áhrif hans á biskupinn eru svo vaxnar, að vonandi er, að biskupinn taki sèr það eigi nærri, og eigi ólíklegt, að biskupsskrifarinn kunni að brosa. Eg skal þó hnýta því við til skýríngarauka fyrir yður, herra ritstjóri, og fyrir almenníng, að eg hefi hvorki munnlega nè brèflega, hvorki fyr nè síðar svo mikið sem minnzt á þetta mál við biskupinn eða skrifara hans. Að svo mæltu skýt eg máli brèfshöfundarins undir dóm óvilhallra manna.

Með mikilli virðíng

*Jón Sigurðsson.*

